# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. árg. WINNIPEG, SEPTEMBER 1901. Nr. 7.

## Sálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM, út af Jóh. 7, 14—18.

(Lag: Hver veit, hve nærri' er æfi-endi?)

1. Þú vildir trúa fús og feginn
á frelsis-boðskap lausnarans;
þér finnst það yfir mannlegt megin
að mega trúa kenning hans.
Hvað vottar það, að sé hann sá,
er sjálfr oss hann greinir frá?

2. Þú heyrir ýmsa aðra rœða
um orðin guðs, er kalla þeir;
en lítt finnst þér á því að grœða
og þekkingin ei aukast meir.
Hvað ætli viti þeir um það,
hvort þetta hefir átt sér stað?

3. Þú helga ritning les og lærir;
þig langar til að gjörast vís;
en þetta engan ávöxt fœrir;
ei opnast guðs orðs paradís.
Er lykill til að lífsins skrá?
Er ljós í þessu myrkri' að fá?

4. Já, eitt er ráðið til að trúa:
Að temja sér að breyta rétt,
frá allri synd og illsku' að snúa
og afmá sérhvern ljótan blett.
Ef guðs þíns vilja gjörir þú,
þá gefr hann þér sanna trú.



## Mikilsvert framfaraspor á menntavegi Vestr-Íslendinga.

Loksins er nú afráðið að byrja í nafni kirkjufélags vors kennslu í íslenzku og íslenzkum bókmenntum. Samkvæmt tillögu þeirri, er samþykkt var á kirkjuþinginu á Gimli, hefir skólamálsnefndin nýja fastbundið samning í þá átt við Wesley College, einn hinna æðri skóla hér í Winnipeg. Forstöðumenn þeirrar menntastofnunar gefa kirkjufélagi voru kost á að hafa þar sérstakan kennara fyrir oss, til þess að veita tilsögn í tungu vorri og bókfræði öllum nemendum, konum jafnt sem körlum, af þjóðflokki vorum, sem þar ganga í skóla og slíka tilsögn vilja nota sér. Laun þessa kennara sér kirkjufélag vort um, en fær aftr upp í það kaup þriðjung af kennslugjaldi því, er allir íslenzkir nemendr þar í skólanum greiða skólastjórninni. En kennslugjaldið um árið er 30 dollars — jafnt fyrir Íslendinga og alla aðra. Svo framarlega sem íslenzku nemendrnir í skólanum verða ekki mjög fáir, er samningr þessi í fjárhagslegu tilliti mjög vel viðunanlegr fyrir kirkjufélag vort.

Eins og til stóð í fyrra, þá er búizt var við, að kirkjufélagið gæti komizt að svipuðum samningi við Gustavus Adolphus College í St. Peter, Minn., hefir skólamálsnefndin falið séra Friðrik J. Bergmann þetta sérstaka kennslustarf á hendr. Og eftir að hafa fengið samþykki þeirra, safnaða, er hann að undanförnu hefir þjónað innan kirkjufélagsins, hefir hann góðfúslega lofað að ganga að því hlutverki. Hann sezt nú að hér í Winnipeg og byrjar á íslenzku-kennslunni undir eins og önnur kennsla hefst í Wesley College 1. Október. Árslaunin,

sem honum eru heitin af skólamálsnefndinni, eru $1,000, alveg eins og samþykkt var á kirkjuþingi í fyrra.

Ráðstöfun þessi var ekki algjörlega komin í kring, þá er síðasta blað „Sameiningarinnar" var prentað. Og því var þar ekkert minnzt á málið. Þetta blað kemr nú ekki út fyrr en örskömmu áðr en skólinn er settr og íslenzku-kennslan á að byrja. Það getr því naumast komið að nokkrum notum, að hér sé verulega farið að rœða þetta mál. Það hefir líka þegar vel verið skýrt fyrir almenningi bæði af hr. Magnúsi Paulson, núveranda ritstjóra „Lögbergs", sem er einn af skólanefndarmönnunum, í því blaði, og af séra Friðrik J. Bergmann, kennaranum sjálfum, bæði í „Lögbergi" og „Heimskringlu".

Að eins leyfum vér oss nú að taka þetta fram:

Margt bendir til þess, að kennslufyrirtœki kirkjufélagsins mælist vel fyrir hjá almenningi fólks vors; ekki að eins þeim, sem heyra söfnuðum vorum til eða eru oss sammála í trúarlegu tilliti utan safnaðanna, heldr og mörgum öðrum Íslendingum. Það sýnist nú miklu sterkari og almennari löngun en áðr hjá löndum vorum hér til þess að hlynnt sé að tungu þeirra og þjóðerni, og miklu meiri trú á því, að slík aðhlynning muni geta borið verulegan ávöxt. Fyrir svo sem tíu árum var kirkjufélaginu meðal annars fundið það til foráttu af trúarlegum andstœðingum þess, að það með fastheldni sinni við tungu feðra vorra væri þröskuldr í vegi fyrir því, að fólk vort hér kœmist inn í þjóðmenning þessa lands. Þeir vildu þá, margir þeirra að minnsta kosti, að Vestr-Íslendingar afklæddist þjóðernisflíkum sínum hið allra bráðasta. En nú heyrist varla nein slík rödd úr þeirri átt. Þvert á móti er þar í seinni tíð — af nærri því óteljandi blaðagreinum að ráða — mjög mikil áherzla á það lögð, að fólk vort leggi verulega rœkt við íslenzkuna. Það, sem ritað hefir verið um orðbókarmálið svo nefnda nú fyrir skemmstu, ber þessa skýran vott, þó að lítið hafi að öðru leyti á þeim ritverkum verið að grœða. Þá er og annað teikn tímans í þessu sambandi gleðilegt, — það, að ungir námsmenn úr hópi Vestr-Íslendinga, sem nú ganga í hina œðri skóla bæði hér nyrðra

og í Bandaríkjunum suðr frá, eru með sívaxanda áhuga fyrir því, að einhver slík íslenzkukennsla eins og sú, sem kirkjufélag vort hefir frá upphafi verið um að hugsa, geti sem fyrst komizt á. Og sérstaklega má þess geta nú, að í vetr sem leið tók íslenzka stúdentafélagið hér í Winnipeg þá ályktan, að bjóða fram útvalda nemendr úr hópi sínum til þess að hjálpa til við kennslu hjá oss, ef kirkjufélagið skyldi í það ráðast, að eiga við skólahald íslenzkt hér í bœnum út af fyrir sig á þessu ári. Og þá kennsluhjálp ætluðu þeir menn að veita oss með öllu endrgjaldslaust, svo framarlega sem vér gætum þegið hana. Skólamálsnefndin áræddi nú ekki að byrja á þann hátt, sem vér lang-helzt hefðum kosið, heldr með því, að vér settum oss í samband við Wesley College. En söm er gjörð hinna ungu íslenzku námsmanna fyrir því, þótt ástœður vorar leyfi oss ekki að nota boð þeirra. Þeir eiga hjartanlegt þakklæti af oss skilið fyrir sinn góða vilja. Eftir að hin upprennandi kynslóð íslenzkra menntamanna hér er orðin með skólamálshugmynd kirkjufélagsins þurfum vér naumast fyrir því að kvíða, að sú hugmynd hljóti að deyja út.

Þó að skólanefndin hafi ekki árætt að byrja á sjálfstœðum íslenzkum skóla að svo stöddu, heldr kosið hinn greiðara veg, að láta íslenzku-kennsluna fara fram í Wesley College samkvæmt vel aðgengilegu tilboði þeirra, er fyrir þeirri menntastofnan standa, þá skyldi þó enginn ætla, að kirkjufélagið sé hætt við hina upphaflegu skólahugmynd sína. Heppnist þessi tilraun, þá verðr lengra haldið áfram síðar, ef guð lofar.

Það ætti að spá góðu fyrir fyrirtœki þessu, að nú er svo ágætt árferði hér í landi. Í öðru eins veltiári og þessu ætti aðsókn íslenzkra ungmenna að skóla þeim, sem hér er um að rœða, að geta verið all-mikil. Wesley College er ágæt menntastofnan eins og reyndar allir skólarnir hér í bœnum. Og um hœfileika og vilja séra Friðriks J. Bergmanns til að leysa kennslustarf það, sem honum er falið, vel af hendi, efast víst enginn, sem þekkir hann.



# Bandalagsþingið,

sem haldið var í sambandi við ársþing kirkjufélags vors hið síðasta, á Gimlı í Nýja Íslandi, hafði tvo fundi — fimmtudaginn 27. Júní, hinn fyrra frá því laust eftir hádegi þar til um miðjan aftan, hinn síðara eftir kl. 8 að kvöldi. Séra Rúnólfr Marteinsson, forseti hinna sameinuðu bandalaga, stýrði fundunum, og skýrði hann frá hag félagskapar þessa.

Bandalögin í kirkjufélaginu eru enn að eins sex að tölu; af þeim var þó eitt, tilheyranda söfnuðinum í Selkirk, alveg nýmyndað, og gekk það nú í félagskap með hinum. Eldri bandalögin, sem lifa, heyra til þessum söfnuðum: Pembinasöfnuði, St. Páls söfnuði í Minneota, Lincoln-söfnuði, söfnuðum Argyle-byggðar og Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg. Þrjú önnur, sem myndazt höfðu innan kirkjufélagsins (á Garðar, Eyford og í Vídalínssöfnuði), hafa sofnað út af, þó að eins eitt þeirra á síðastliðnu ári. Sennilega rísa þau upp aftr á sínum tíma, og eitt af þeim kvað vera að lifna við einmitt nú.

Af hinum kjörnu erindsrekum, sem sendir voru á bandalagsþing þetta, voru þrír reglulegir kirkjuþingsmenn: Jóhann H. Hannesson, George Peterson og Jóhannes H. Frost. Hinir erindsrekarnir allir voru konur, frú Jónína Júlíus og frú Kristjana Albert og ungfrúrnar Guðný Hofteig, Guðrún Johnson og Margrét Sigmar. Þetta bendir all-ótvíræðilega til þess, að áhugi á bandalagsmálum muni vera meiri, jafnvel miklu meiri, hjá kvenfólki en karlmönnum. Og er það í samræmi við kirkjulega reynslu vora yfir höfuð að tala. Kvenfólkið er í þeim málum öllum jafnaðarlega langt á undan karlmönnum. — Prestar kirkjufélagsins eru hjá oss réttilega taldir sjálfkjörnir á bandalagsþing. En allir aðrir kirkjuþingsmenn hafa þar málfrelsi.

Litlar eru nú líkur fyrir því, að félagskapr þessi hinn sérstaki — bandalögin — deyi eftir þetta út hjá oss. En miklir eru þó örðugleikarnir á því, að láta bandalögin lifa og þroskast. Þetta er algjörlega nýr þáttr í íslenzku kirkjulífi, og því mjög eðlilegt, að fólki skiljist ekki vel svona í fljótu bragði hið tilætlaða gagn hans. Bandalögin eru ný ekki að

eins hér hjá oss Íslendingum, heldr líka í lútersku kirkjunni í heild sinni, enda ekki til muna búin að ná sér þar niðri annars staðar en í hinum ensku-mælandi deildum hennar hér í álfu. Þessi unglinga-félagskapr varð þar og ekki fyrst til, heldr í öðrum prótestantiskum kirkjuflokkum, og fyrir sterk áhrif úr þeirri átt fœrðist hann svo í nokkuð breyttri mynd inn í lútersku kirkjuna. Eitt hinna allra sterkustu og mest útbreiddu unglinga-félaga í kristninni fyrir utan lútersku kirkjuna er hið svo nefnda *Christian Endeavor*, sem heyrir presbyteríönum til. En ekki heldr það félag getr gamalt kallazt. Það eru að eins fimmtíu ár síðan það varð til. Þann félagskap höfðu lúterskir menn í Bandaríkjunum víst einna helzt sér til fyrirmyndar, þá er þeir fyrir svo sem fjórtán árum byrjuðu með *Luther League*, þann sérstaka félagskap fyrir unga fólkið í kirkju sinni, sem vér nefnum *bandalagið*.

Markmið bandalaganna er það, að gjöra œskulýðinn uppvaxanda að góðu, vel kristnu og vel upplýstu safnaðarfólki, varna því, að unglingarnir týnist út úr kirkjunni eftir ferminguna, laða þá að guðs orði, gefa þeim hvöt til þess að verða nýtir, starfandi safnaðarlimir sinnar eigin kirkju. Einhver slík framkvæmd af hálfu kirkjunnar fram yfir það, sem áðr var, er bráð-nauðsynleg nú; því svo sem það yfir höfuð nú er vandlifaðra í heiminum en áðr var, sökum sívaxandi samkeppni og margs annars, svo hlýtr og nú að vera meira krafizt af kirkjulýðnum en áðr. Með tilliti til þessa eru bandalögin stofnuð. Þau eiga að vera kirkjulegir menningarskólar fyrir unglingana. Til skiftis hafa þau trúmálafundi og mentamálafundi, og sum þeirra einnig svo kallaða skemmtifundi, sem þó stundum eru hafðir fyrir starfsmál. Yfir tvennu er helzt kvartað: örðugleikanum á því að fá menn til að sœkja fundina títt og reglulega, og því, að fá þá, sem koma, til þess að vera þar starfandi. Það vill sœkja í sama horf með fundasókn þessa eins og það, að sœkja kirkjuna á fastákveðnum guðsþjónustutíðum. Kirkjurœkni Íslendinga er mjög ábótavant. Sá sjúkdómr læknast ekki á stuttum tíma. Helzta lækningarráðið er óefað það, að sem mest sé vandað allt, sem fram fer í kirkjunni, og þá hvað helzt prédikanin, svo menn,

ef verða mætti, fái inn í sig vaxandi þrá til að koma þangað, verði sér þess meðvitandi, að þeir missi svo og svo mikið við það að koma þar ekki. Bandalagsfundirnir eru nú haldnir á virkum dögum, og er þá skiljanlegt, að aflið, sem draga vill fólk burt frá þeim fundum, sé að sumu leyti enn sterkara en það, er heldr fólki burt frá guðsþjónustu-fundunum í kirkjunni á sunnudögum. Þarf því sannarlega vel að vanda til funda bandalaganna, ef duga skal. Gæti nú bandalagsfundirnir í söfnuðunum jafnaðarlega að sínu leyti heppnazt eins vel og þeir, sem í þetta skifti voru haldnir á Gimli, þá þyrfti naumast fyrir því að kvíða, að þeir ekki dragi fólk að sér. Menn undu sér vel á þeim fundum. Prógrammið var gott. Auk söngs og hljóðfærasláttar voru margar ræður haldnar. En aðal-ræðuefnin voru þessi: ,,Bandalög í sveitum" (frummælandi Jóhannes S. Björnsson), ,,Hvað getr bandalagið gjört til að viðhalda íslenzkunni?" (séra Jón Bjarnason), ,,Hefir bandalagið rétt á að vera til?" (séra Jón Clemens), ,,Hvernig getr bandalagið bezt stutt söfnuð sinn?" (ungfrú Guðný Hofteig), ,,Hvernig getr bandalagið bezt náð tilgangi sínum?" (Hjörtr Leó).

Allir töluðu á íslenzku. Og ekki er neinn vafi á því fyrir oss, að íslenzka, en ekki enska, verðr að vera aðal-tungumálið á öllum bandalagsfundum vorum lengi lengi, ef þeir eiga að koma að fullum notum og geta haft nokkurt verulegt aðdráttarafl fyrir almenning — líka unga fólkið. Það heyrir víst algjörlega til undantekninga í söfnuðum vorum hér, að unglingum notist það, sem talað eða lesið eða sungið er á ensku, eins vel og það, er á sama hátt fer fram á íslenzku. Þeir, sem kynni að vera í vafa um þetta, gæti reynt á bandalagsfundi eða einhverjum öðrum fundi, þar sem margt ungt fólk er saman komið, að lesa upp einhvern útvalinn kafla úr einhverri ágætri enskri skáldsögu, og svo aftr sama kaflann í vandaðri íslenzkri þýðing. Og þeir munu brátt komast að raun um, að það lesmál hefir miklu meiri áhrif á tilheyrendrna, bæði eldri og yngri, á íslenzku en á ensku. En það að koma með slíkt á íslenzku útheimtir vitanlega all-mikla fyrirhöfn, svo framarlega sem þýðingin íslenzka er ekki áðr

til. Þar neyðast menn til að hafa undirbúning. Og það er kostr. Því meira sem menn leggja á sig til undirbúnings fundanna í bandalögunum, því betr heppnast þeir áreiðanlega. Bandalögin geta verið og eiga að vera hinni íslenzku feðratungu vorri hér til stór-mikils stuðnings, eins og vafalaust hefir vakað fyrir forstöðunefnd bandalaganna sameinuðu, þegar hún valdi ræðuefnið áminnzta fyrir fundinn á Gimli: „Hvað getr bandalagið gjört til að viðhalda íslenzkunni?" En hins vegar getr íslenzkan líka, sé hún rækilega notuð, orðið bandalaginu til ómetanlegs gagns.

Ályktað var á bandalagsþingi þessu, að gefið skyldi út íslenzkt söngva-kver til notkunar á fundum bandalaganna; og var þeim séra N. Steingrími Þorlákssyni, séra Birni B. Jónssyni og hr. Hirti Leó falið á hendr að safna til þess og sjá um útgáfuna.

Séra Rúnólfr Marteinsson var endrkosinn forseti bandalaganna sameinuðu. Fyrir skrifara var kosin ungfrú Guðný Hofteig, og fyrir féhirði ungfrú Margrét Sigmar. (Varaembættismenn í stjórnarnefndinni: Jóhann H. Hannesson, séra Björn B. Jónsson og séra Jón J. Clemens.)

## Sunnudagsskólinn.

Eins og áðr hefir verið um getið í „Sam." var sérstakr fundr helgaðr málum sunnudagsskólans á kirkjuþingi voru hinu síðasta. Það var á föstudag 28. Júní. Og stóð sá fundr yfir frá því kl. 2 til 7 e. m. Séra Björn B. Jónsson, formaðr skólamálsnefndarinnar, stýrði honum. Prógramm fundarins hafði áðr verið auglýst í „Kennaranum". Þó varð í sumu að víkja frá því.

Samkvæmt skýrslu formanns er tala sunnudagsskólanna innan kirkjufélagsins — eða var þá — 26. Kennarar í þeim skólum samtals 148. Innritaðir nemendr á liðnu ári 1,681 (flestir í einu 1,293, fæstir, 574, meðaltal 933).

Umræðuefnin, sem valin höfðu verið fyrir fund þennan, voru þessi: „Hvaða þýðing hefir sunnudagsskólinn fyrir

heimilin?" (frummælandi Hjörtr Leó), „Bókasafn sunnudagsskólans" (séra Jón Bjarnason), „Hvað þarf að gjöra til þess að sunnudagsskólarnir fái hœfa kennara?" (séra Björn B. Jónsson), „Hvernig á að kenna fullorðnu fólki?" (Jóhannes S. Björnsson), „Hvernig á að kenna litlu börnunum?" (Jóhannes H. Frost). Margir tóku til máls við þessar umrœður, sem voru fjörugar og uppbyggilegar. Á milli rœðnanna var ýmist leikið á organ (frú Clemens), eða sóló-söngr (séra Jón J. Clemens), eða barnasöngr (hópr 30 barna, sem frú Paulson stýrði), og jók það mjög á ánœgju manna á fundinum.

Augsýnilega var við val umrœðuefnanna fyrir fund þennan forðazt, að hafa þar nokkuð, sem vitanlegt var um fyrirfram að valda myndi ágreiningi. Tilgangrinn hefir þar vafalaust verið góðr. Engu að síðr teljum vér réttara að taka líka til umrœðu á slíkum fundum þau mál sunnudagsskólanum viðvíkjandi, sem skiftar eru skoðanir um innan kirkjufélagsins. Á sunnudagsskólafundinum, sem haldinn var á kirkjuþinginu í fyrra, átti, samkvæmt áðr útgenginni auglýsing, meðal annars að tala um *lexíuval* fyrir sunnudagsskólana, sjálfsagt fyrir þá sök, að það þótti all-miklu máli skifta, en víst einnig sökum þess, að lengst af á æfi kirkjufélagsins hefir prestana mjög greint á um það, hvaða sunnudagsskóla-lexíur væri heppilegastar. En það umrœðuefni komst ekki að á þeim fundi. Sennilega hefði þá mátt við því búast, að ekki yrði nú einnig á þessa árs kirkjuþingsfundi út af málum sunnudagsskólans fram hjá því umrœðuefni gengið. En þó varð sú einmitt reyndin. Ekki var laust við, að ritstjóri „Sam." hneykslaðist á því, er hann sá undir eins og auglýsingin um umrœðuefnin fyrir sunnudagsskólafundinn í ár birtist í „Kennaranum", að enn átti að leiða þetta mál hjá sér. Því að úr því að vitanlega var þar ágreiningr, mátti virðast bráð-nauðsynlegt, að slíkum fundi væri að einhverju leyti varið til þess að rœða það mál og skoða það sem bezt frá öllum hliðum, ef verða mætti, að menn gæti í því efni orðið á eitt sáttir. Og er sýnt var, að enn átti á sunnudagsskólafundi að humma málið fram af sér, fannst oss vér nærri því til neyddir að hreyfa því opinberlega á kirkjuþingi á annan hátt. Það

gjörði ritstjóri blaðs þessa þá einnig í fyrirlestrinum „Þrándr í Götu", sem hann í sumar flutti á þinginu, og þó að eins í mjög stuttu máli. Ritstjóri „Kennarans", séra Björn B. Jónsson, hefir nú síðan í blaði sínu komið með grein frá sjálfum sér með fyrirsögninni „Alvarlegt mál". Þeirri grein er ekki enn lokið. En þetta „alvarlega" mál, sem hann þar ritar um, er einmitt lexíuvalið, sunnudagsskóla-lexíurnar. Í þeim kafla greinarinnar, sem birtist í Júlí-blaði „Kennarans", er talað um flokkaskifting í lexíuvalinu (*graded lessons*), og hafði því máli áðr verið hreyft í sama blaði. Út í það efni var ekkert farið í kirkjuþings-fyrirlestrinum, að eins þar minnzt á þær lexíur, sem „Kennarinn" hefir haft meðferðis og General Council-menn hafa útvalið fyrir börn á öllum aldri í sunnudagsskólanum í staðinn fyrir hinar almennu (international) lexíur. En um það efni talar séra Björn í þeim parti greinar sinnar, sem Ágúst-blað „Kennarans" kom með. Ekki verðr þó sagt, að þar sé svarað upp á það, er vér sögðum í fyrirlestrinum á kirkjuþinginu um sama efni. Miklu fremr má svo virðast sem vér í fyrirlestrinum höfum verið að svara þessu, er hann nú kemr með því máli viðvíkjanda í síðasta blaði „Kennarans". Þess vegna látum vér þá líka þetta blað „Sam." flytja lesendum vorum það brot fyrirlestrsins, sem snertir lexíuvalið; og gjörði menn vel í að bera það vandlega saman við áminnztan ritgjörðarpart séra Björns.

Hinar ágætu rœður þeirra Hjartar Leó og Jóhannesar H. Frost, sem áðr er sagt að þeir hafi flutt á sunnudagsskólafundinum á Gimli, hafa þegar í heild sinni birzt í „Kennaranum".

Í sunnudagsskóla-nefnd kaus kirkjuþing síðasta þá séra Björn B. Jónsson, séra Jón J. Clemens, stud. theol. Gunnlaug W. Jónsson, Jóhannes S. Björnsson og Hjört Leó.

---

## Brot úr kirkjuþings-fyrirlestrinum „Þrándr í Götu", snertanda sunnudagsskólamálið.

Eitt þýðingarmikið mál fyrir oss í kirkjulegu tilliti er sunnudagsskólamálið. Sunnudagsskólalausir ólumst vér upp

á Íslandi. Og sunnudagsskólalaus er kirkjan á Íslandi enn. En nú er langt liðið síðan, að vér urðum oss þess meðvitandi, að hér gætum vér ekki í neinum söfnuði komizt af án sunnudagsskóla. Og enginn minnsti vafi er á því, að sunnudagsskólar vorir hafa þrátt fyrir margfaldan ófullkomleik, sem þeir hafa háðir verið allt til þessa, gjört kirkjulífi voru mjög mikið gagn. Sunnudagsskólinn er nú ekki sérstaklega lútersk stofnan, eða að minnsta kosti ekki í þeirri mynd, sem hann nú hefir hér í Ameríku eða á Bretlandi, eða í neinu öðru landi. Í þeirri mynd varð hann fyrst til á Englandi seint á 18. öld og náði sér brátt niðri víðsvegar meðal hinna enskumælandi þjóða hjá öllum prótestantiskum kirkjuflokkum, hvergi þó eins sterklega og almennt og hér í Norðr-Ameríku. Líka í lútersku kirkjunni náði hann inngöngu, þótt það gengi nokkuð seint víðast hvar, með fram fyrir þá sök, að hann var ekki þar upp runninn. Mörgum að öðru leyti ágætum mönnum kirkju vorrar hættir mjög mikið við að líta óhýru hornauga til allra nýmæla kristindómslífinu til eflingar, sem upp koma í öðrum kirkjudeildum. Sá ýmugustr minnir á spurning Natanaels forðum: ,,Getr nokkuð gott komið frá Nazaret?“ En sannleikrinn er, að það, sem bezt er, getr stundum komið þaðan. Stórkostlega mikið hefir sunnudagsskólamálinu fleygt fram í kirkjunni yfir höfuð á tímanum, sem liðinn er síðan Íslendingar fóru að flytjast vestr um haf. Í því tilliti má benda á hið sameiginlega lexíuval úr biblíunni fyrir sunnudagsskólana (The International Sunday School Lessons), sem byrjað var á árið 1872. Lang-víðast aðhylltust menn það í hinum ameríkönsku og ensku kirkjum, enda hefir mikið kapp verið á það lagt að fullkomna það meir og meir og ganga svo frá því, að fullnægt gæti sanngjörnum kröfum alls fólks í hinni evangelisku kristni. Ágætan stuðning hefir það lexíuval ávallt haft í hinu mikla vikublaði *The Sunday School Times*, sem út er gefið í Philadelphia, enda skarar það langt fram úr öllum tímaritum þeirrar tegundar, að minnsta kosti öllum, sem koma út hér í Vestrheimi. En all-stór hluti lútersku kirkjunnar í Bandaríkjunum, þar á meðal General Council, hefir ekki getað fengizt til að vera þar með. Þeir

þykjast ekki geta notað þær sunnudagsskóla-lexíur fyrir þá sök, að í vali þeirra ráði ekki lúterskr andi. General Council fór fyrir nokkrum árum að brjótast í því að fá nýtt lexíuval eftir sínu höfði. Og nú er sem óðast verið að fœra það út og því verki haldið í gangi með mörgum nýjum smáritum, sem auðvitað öll eru nýtileg og sum miklu meira en það. En þetta er í rauninni óþarft verk. Lexíuval þetta er ekki betra en hitt, heldr verra, frá hvaða sjónarmiði sem á það er litið. Og það, sem enn hefir verið ritað því til skýringar, kemst í engan samjöfnuð við lexíuskýringarnar í ,,Sunday School Times". General-synódan lúterska heldr úti mánaðarriti því, er ,,Augsburg Sunday School Teacher" nefnist, og eru almennu sunnudagsskóla-lexíurnar þar skýrðar. það er miklu betra rit en ,,Lutheran Quarterly" (aðal-ritið, sem General Council gefr út sunnudagsskólum sínum til notkunar). Allt, sem haft hefir verið á móti hinu almenna lexíuvali frá lútersku sjónarmiði, er einskis virði. það hefir verið sagt, að þar væri gengið fram hjá þeim stöðum í ritningunni, sem mestr trúarágreiningr hefir verið um í kristninni. þetta er ekki satt. Gætið að, hvort þar er t. a. m. sneitt hjá þeim guðspjallaköflum, er skýra frá innsetning sakramentanna, skírnarinnar og kvöldmáltíðarinnar, þar sem þau orð koma fyrir, er hvað mest hefir verið deilt um í kirkjunni. það hefir verið sagt, að þar væri of mikið af lexíum úr gamla testamentinu í samanburði við lexíurnar úr nýja testamentinu. En sé þetta satt, þá hefir að minnsta kosti ekki verið bœtt úr því með lexíuvali General Council-manna, — öllu heldr hið gagnstœða. Enn fremr hefir verið sagt, að þar væri allsendis ekkert tillit tekið til kirkjuárstíðanna. Upphaflega mun það hafa verið satt. En því er ekki svo varið nú. Eg gjöri nú ekki mikið úr kirkjuárinu í því sambandi. En sleppum því. Á hitt er vert að benda, að í hinu almenna lexíuvali hafa sunnudagsskólunum fyrir síðastliðna langaföstutíð verið útvaldir kaflar úr guðspjöllunum um Jesúm á krossferlinum og fyrir sunnudaga páskatíðarinnar kaflar úr sömu ritum um opinberanir Jesú eftir upprisuna. þar sem lexíur General Council-manna á sömu tíðum aftr á móti hafa allar verið úr spádómsbók Esaj-

asar, valdar þar til og frá, aftr á bak enn þá oftar en áfram, — allt sundr slitið og sumt án alls sjáanlegs tillits til þeirra kirkjulegu árstíða. Fleira, sem almennu lexíunum hefir verið fundið til foráttu af lúterskum mönnum, hirði eg ekki að nefna, því það er jafn-léttvægt og þetta, sem nú var á bent. Allr sá mótblástr stafar af þröngsýni eða einhverri óskiljanlegri sérkreddu-tilhneiging, sem í stað þess að styrkja lútersku kirkjuna veikir hana einmitt. Og á því er ekki minnsti vafi fyrir mér, að vér Íslendingar bíðum tjón af því í sunnudagsskólamáli voru að fara í þessu efni blindandi eftir því, sem brœðr vorir í General Council vilja. Að hafna því, sem betra er, fyrir annað lakara, er ávallt tjón. Látum aðra, ef þeir endilega vilja, í þessu hafa sína kreddu fyrir sig. Þeir um það. En þeir í hópi vorum hér, sem hafa sömu tilhneiging, ætti að varast að troða henni upp á oss hina, því afleiðingin af því hlýtr að verða einn nýr Þrándr í Götu á framfaraleið kirkjufélagsins íslenzka.

---

## Bandaríkja-forsetinn skotinn.

[Niðrlag prédikunar, sem ritstjóri „Sam." flutti í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg að morgni sunnudagsins 8. þ.m. (14. e trín.) út af guðspjallinu um þá tíu líkþráu menn (Lúkas 17)—um vanþakklætis-syndina.]

Nýkomin er til vor hin voðalega frétt um banatilræðið í fyrra dag við McKinley, forseta Bandaríkjanna, einn hinn mesta ágætismann samtíðarinnar, einhvern allra bezta þjóðhöfðingja, sem uppi hefir verið á vorum mannsaldri, og þótt miklu lengra sé leitað. Þvílíkt slys! Þvílíkt sorgarslag fyrir ástvini hans, land hans og lýð, — og fyrir allt almennilegt fólk í öðrum löndum og ríkjum! Og þvílík synd! Þvílíkt ofrmagn mannvonzkunnar hjá vesalmenni því, er illverkið drýgði, og mannhópi þeim öllum, er í laumi stendr þar á bak við! Hárin hafa risið á höfði manna þúsundum og milíónum saman út um allan heim út af fregninni um þetta djöfullega níðingsverk. Hvernig víkr því við, að annað eins skuli geta komið fyrir — og það í því landi, þar sem menntanin stendr einna hæst í heimi, hagsæld almennings í svo góðu lagi, að

aldrei hefir í neinu landi áðr fyrr verið eins, framfarirnar nærri því óviðjafnanlegar, mannfrelsið nálega takmarkalaust? Kristið er landið kallað, og líklega eins vel kristið í raun og veru og nokkurt annað land. Og maðrinn, sem með þessu móti er reynt til að deyða, eins mikið afbragð sem stjórnari og eins göfugr að mannkostum og allir hafa hátíðlega kannazt við. Hví gat þá annað eins óhœfuverk, annað eins allsherjar skelfingar-atvik, komið fyrir?

Hér fá allir séð svart á hvítu — það má nú lesa það um allan heim—, hvað syndin getr verið syndug, hvað syndug hún er í innsta eðli sínu, — nákvæmlega eins og heilög ritning vor og Jesús Kristr lýsir henni.

Flokkr ,,anarkista'' stendr á bak við hið hryllilega ódáðaverk, hinn ógeðslegi, samvizkulausi myrkramanna-hópr, sem sett hefir sér það mark og mið að kollvarpa öllu lögbundnu fólkslífi, afnema alla stjórn og öll yfirvöld, jafna allt í mannheimi með jörðu, gjöra ríki og lönd að einu allsherjar moldarflagi. En af hverju stafar þetta syndsamlega óvit, þessi œðandi, eyðandi ónáttúra? Af óánœgju og öfund. — Þetta eru menn, sem brenna af óánœgju með hin jarðnesku kjör sín, og af öfund við aðra menn, þá alla, sem betr líðr í jarðneskum efnum, eða sem þeir ímynda sér að eigi í því tilliti betra en þeir. Svona á að launa þeim mönnum í stjórnum landanna, sem alla sína krafta leggja fram til þess að styðja heill almennings, alla sína vitsmuni til þess að koma því skipulagi á mannfélagið, að allir geti sem bezt notið sín!

Þetta er vanþakklæti — heimsins, nútíðarinnar, vanþakklæti í svörtustu mynd þess.

Er nú ekki öllum augsýnilegt, hvað þeir eru að vinna nær og fjær oss, sem með öllu móti eru að spana fólk upp gegn yfirmönnum þess, kveikja eld óánœgju og öfundar í sálum þeirra, er sæti eiga á óœðra bekk mannfélagsins, innrœta fátœklingum óvild og hatr til þeirra, sem hafa auð fjár, án alls tillits til þesss, hvort sá auðr hefir fengizt með réttu móti eða röngu, eða hvort honum hefir verið varið vel eða illa?

Hver getr hjálpað í neyðinni? Hver huggað í sorginni? Hver frelsað frá syndinni? Hver varnað því hræðilega heims-

hruni, sem hinir œðisgengnu œsingamenn eru að að vinna?—Að eins einn — guðmaðrinn krossfesti og upprisni, Jesús Kristr, mannkynsfrelsarinn. —Taki því allir undir hið biðjanda sársauka-ákall í guðspjallinu: Jesu meistari, miskunna þú oss!

## Leiðrétting.

Í skýrslu þeirri um afskifti kirkjufélagsins af komu séra Odds V. Gíslasonar vestr hingað frá Íslandi árið 1894, sem prentuð stendr í „Sam.“ xv, 8, er skekkja, sem eg gat um á kirkjuþinginu á Gimli, bað afsökunar á og leiðrétti munnlega. Í hinni prentuðu skýrslu stendr, að eg hafi fengið bréf frá séra Oddi um sömu mundir sem köllunarbréfið til hans frá Brœðrasöfnuði kom til mín haustið 1893, og jafnframt hafi hann þá sent mér eftirrit af bréfi frá honum til Brœðrasafnaðar. Þetta síðasta er ekki rétt. Það var misminni mitt. Eftirritið af bréfi séra Odds til Brœðrasafnaðar sendi hann mér ekki fyrr en síðar, með bréfi frá 2. Febr. 1894. En þrátt fyrir þessa skekkju hefir framsetning efnisins í skýrslunni í engu verulegu ruglazt, því með hinu fyrra bréfi fékk eg að vita skilmála þá, er séra O. ætlaðist til að fullnœgt yrði, ef hann gengi að prestskap í Nýja Íslandi. Engu að síðr bið eg enn afsökunar á skekkjunni um leið og eg leiðrétti hana hér í blaðinu.

JÓN BJARNASON.

Oss gleymdist að geta þess í ritgjörðinni um kirkjuþingið á Gimli í Júlí-blaði „Sam.“, að kvenfélagið „Tilraun“ þar á staðnum hélt þingmönnum öllum heimboð undir berum himni í rjóðri einu vestan til í bœjarstœðinu laugardaginn 29. Júní. Var þar vel veitt og skemmtan hin bezta. Rœðuhöld fjörug og fjölbreytt. Meðal annars var þess við það tœkifœri minnzt, að á þeim stöðvum — í Nýja Íslandi og sérstaklega á Gimli — hefði vagga hins kirkjulega félagskapar Vestr-Íslendinga staðið fyrir nærri því fjórðungi aldar. Og því var spáð, að þrátt fyrir allt og allt myndi Nýja Ísland og Gimli bæði í veraldlegum og kirkjulegum efnum eiga góða og gleðilega framtíð fyrir sér.

Ágreiningr hefir lengi verið um það, hverjir væri hinir réttu eigendr kirkjunnar í Mikley, hvort söfnuðrinn lúterski þar, sá er tilheyrir kirkjufélagi voru, eða aðrir eyjarbúar. Nú er þeim ágreiningi lokið. Utansafnaðarmenn hafa góðfúslega sleppt tilkalli sínu til kirkjunnar, sem þannig nú óefað mun mega telja lögmæta eign safnaðarins.

---

Gjörðabók seytjánda ársþings kirkjufélags vors er nú prentuð (í prentsmiðju „Lögbergs" í Winnipeg). Ritlingrinn, sem er 38 bls. að stœrð í sama broti og „Sam.", er sendr til útsölu öllum kirkjuþingsmönnum. Verðið er að eins 15 cents. Lesmál ritlings þessa er býsna mikið, því öll þau skjöl, sem fram voru lögð á þinginu eru prentuð með smáu og mjög þétt settu letri.

---

Séra Jón J. Clemens er ráðinn af kirkjufélaginu sem missíónarprestr þess frá því hann í næsta mánuði hættir við þjónustu í Argyle-söfnuðum til ársloka. Á þeim tíma er búizt við, að hann heimsœki fólk í Þingvallanýlendu, þjóni um mánaðartíma söfnuðinum í Alberta, fari til Roseau-byggðar, Minn. (Lúterssafnaðar), og víðar, ef tími verðr til. Í Chicago dvelr hann að líkindum um miðsvetrar-mánuðina. En hvort hann svo næsta vor getr starfað nokkuð að kirkjulegum málum hjá oss er enn óvíst.



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstjóri), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B Jónsson og N. Steingrímr Þorláksson.